Devotions

# Andlegt Versa-Safn

innihaldandi

## Missiraskipta- Hátída- Helgidaga- Qvøld- og Morgun og Dagleg-Vers

til gudrækilegrar Brúkunar

í Heimahúsum.

---

Selst óinnbundid á Prentp. 40 ß. S.




---


Videyar Klaustri, 1839.

Prentad á kostnad Secret. O. M. Stephensens, af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# Innihald.

## Fyrsti Flockur

innihelldur



## Annar Flockur

innihelldur



## Pridji Flockur

innihelldur



## Fjórdi Flockur

innihelldur

Þetta andlega Versa-Safn, sem hentugt er um hønd ad hafa af ýngri og eldri vid mørg tímaskipti og í mørgum lífsins tilfellum, þeim til gudrækilegrar andagtar og sálnhjálplegra nota, er fyrir nockrum tíma innsendt til prentunar, en — hvør Høfundur muni vera til Iggja fyrstu Flockanna, allra undir þessu Lagi: Eilíft lífid er æskilegt, er mér ókunnugt, nema hvad fáein vers fyrirkoma í þeim, sem eignud eru Prestinum Sira Páli sál. Bjarnasyni, er þjónadi fyrst sem Capellan og sídan Prestur á Undirfelli í Húnavatns Sýslu frá 1789 til 1838, alls 49 ár, þar til hann dó 6ta Martii s. á. 75 ára; hann var gáfumadur, gódur Klerkur og lipurt skáld, og meinast ennfremur møvg af Versunum frá bls. 141 til bls. 151 ad vera af honum qvedin. Fjórdi Flockurinn er orktur af Prestinum Sira Sigurdi sáluga

Ingimundssyni, er þjónadi sem Capel-
lan og Prestur í Selvogs Þíngum frá
1767 til 1788, en upp þadan sem Prestur
Arnarbælis Sókna í Ölvesi innan Ar-
nes Sýslu til 1820, þá hann dó þann
29da Nóvembr. s. á. eptir 53 Prests Em-
bættis ár, 77 ára gamall. Hann var gáfu-
madur, afbragds gódur Predikari sinnar
tídar og lidugt Skáld.

Utgéfarinn.

# Fyrsti Flockur,
innihelldur
## Missira-Skipta, Hátída- og Helgidaga-vers,
øll med sama lag:
Eilíft lífid er æskilegt.

## A) Missira-Skipta-vers.
### a) Vetrar vers.

Heill sé þér, Drottinn! vegsemd blíd, virding og þacklæted, af Englum og mønnum árla og síd, á himni og jørdu téd; aflifad Sumar útendad, án slísa høfum nú, innra og ytra oss blessad, af misskun hefir þú; enn til þín qvøkum aumir vær, eilífur dýrdar ljóminn skjær, væga géf oss nú Vetrar tíd, væng þinn yfir oss breid, umkríngi oss þin adstod blíd, afstýrdu hvørskyns neyd, vort þegar endast æfi stríd, í eilíft Sumar innleid!

Vetur yndælann veit oss nú, Veturinn byrjada; Vetrarins Herra vor Jesú, Vetrar sjálf blessada, Vetur ydrunar, Vetur friðs, Vetur Guðs nálægdar, Vetur qvittunar vondsku síðs, Vetur lífs betrunar, Vetur sem stýrir velferð lífs, Vetur sem rírir þrautir kífs, í Vetur ef kalla villt oss frá, Vetrinum útlegdar, Vetur og Sumar vild þín á, verdi oss allstadar, veit oss um sídir, vor Guð! ná, vist sælu himneskrar.

---

Vetur er kominn, Sumar sól, sæl burtu liðin er, ætíð veraldar allt um ból, ótfluga svona þver, utan Guðs náð og elskan klár, aldrei sú bregdast kann, sem er hún bædi síð og ár, synkugann hér við mann, komandi því á Vetri vér, vora sál og líf felum þér, forda oss øllu fári og neyð, forlát oss misgjørðer, þína oss yfir blída breið, blessan hvar erum vér, lífsins nær fallvallt linnir skeið, leið oss í dýrð með þér.

---

Sjest nú á enda Sumar tíð, sjest kómin Vetrar stund, sjest lækka gaungu sólin blíð,

sjest ódum følna grund, sjest grasid falla sem í dá, sjest snjórinn allt um kríng, margskyns sjest horfin fegurd frá, á flestu sjest umbreytíng, Jesú! þú vert oss Sumar sól, sértu Jesús vort verndar skjól, Jesús sjái vorn jafnan hag, Jesús í gledi og neyd, framferdi bestu færi í lag, í fridi Jesús oss leid, Jesús um nótt, Jesús um dag, Jesús í lífi og deyd.

---

Sæl er nú lidin Sumar tíd, sé þér, Gud! lof og dýrd, af øllum túngum ár og síd, Engla og manna skýrd, unadsemd fyrir alla þá, er þú létst vort í skaut, hásæti þínu falla frá, med farsældar blóma skraut, vér bidjum þig í Vetur eins, vid ángurs kjørum forda meins, alla vora þú gaungu greid, géf lífs og sálar frid, ástar væng þinn oss yfirbreid, og loks um daudans hlid, útlegdar burt úr ánaud leid, inní fødurlandid.

## b) Sumar vers.

Eilíft þakklæti æ sé þér, almáttug þrenníng blíd! einn vetur nú á enda er, uppbyrjast Sumar tíd, sé nú þín miskun, Herra hýr, himin blessunar klár, yfir oss aunum elsku

hlíf, öll hér um lífsins ár, Drottinn! Þín blessud hægri hönd, hjúkri oss bædi á lífi og önd, ó Herra Jesú! hjá oss blíf, hér medan eigum töf, frá allskyns voda oss öllum hlíf, eymdanna stittu köf, ó Jesú! géf oss eilíft líf, öllum í Sumargjöf.

---

Lífstundir vorar líkjast vid, lidinna vetrar tíd, eptir hvörja med enga bid, eymdanna dinur hríd, lífstunda súrt þó súpum saup, sorgavötnunum hjá, blódugast Jesú benjastaup, blessad oss svali þá, ockar tár honum aptur vér, af hjarta fæium þacklátir, oss fyrir veitta ást og hlíf, um lidna vetrar töf, og eptir lidid eymda kíf, og ángistanna köf, ó Jesú! géf oss eilíft líf, öllum í Sumargjöf.

---

Lof sjé þér Gud og Lausnari minn! fyrir lidna vetrar tíd, felum vér oss í fadminn þinn, framvegis, þrenning blíd! framar bidjum þig, Fadir kjær! um farsæld Sumarsins þó, med ástar gjædum oss endurnær, af himni, jörd og sjó, hvörs kyns slisförum varna vid, veittu oss lífs og sálar frid, mein-

gjørdum Satans mest vid hlíf, medan hér eigum tøf, eptir mótlætis endad kíf, og holdid leggst í grøf, ó Jesú! géf oss eilíft líf, øllum í Sumargjøf.

---

Lofadur sértu, lifandi Gud! lidin er Vetrar tíd, miskunin þín er margføldud, vid mennina fyrr og síd, vardveitt hefir þín voldug hønd, vesælann mig og mitt, svo engin sliss né audnu grønd, oss hefir neina hitt, þar fyrir ætíd þøckum vér, þó ecki verdi svo sem ber, framvegis géf oss, Fadir minn! fyrir þíns Sonar deyd, sálar heill, frid og føgnudinn, fyrrtir erum þá neyd, sú er besta Sumargjøfin, svo fæst vel endad skeid.

---

Rennur oss upp ad nýu nú, nádar og Sumar ljós, margfaldist lof þitt, minn Jesú! magt, æra, dýrd og hrós, úr hafi misgjørda hrópum vér, í haf þinnar miskunar, bjargi oss þínir blódlækir, burt þvoi syndirnar, ljós þinnar nádar ljómi best, ljós trúarinnar vidnærist, ljós þinna orda lýsi hér, ljós skíni kjærleikans, géf í ljósi nú gaungum vér, glæd þú ljós skírleikans.

með børnum ljóssins blessaðir, byggjum ljós himna ranns.

---

O þú blessaði aldanna, eilífur Faðir kjær! met þú oss skipti misðira, í miskun þinni vær, með nýu Sumri hinn nýa mann, náðin þín upplífgi, svo þægilegur þér sé hann, þinn vilja stundandi, samvitsku þjáníng sefa þú, sofandi hjørtum uppvektu, hriggum vertu trúr huggari, hjálp besta nauðstøddum, yfirvaldanna verndari, vøru besta þegnunum, kjør hnossið allri kristninni, krøptug ró deyendum.

---

Sumargjøf, Jesú! sértu vor, Sumar farsælt oss veit, Sumarsins helga sérhvørt spor, Sumarsaung gefðu neit; Sumar friðar og samlindis, Sumar lífs betrunar, Sumar innra manns sælgjætis, Sumar Guðs náðlægðar, synda qvittunar Sumar géf, Sum, arið þinni blessan vef, í Sumar ef burtu sofnum vér, og súpum dauðans skál, eða hvenær sem þóknast þér, þrjóti lífs reisa vår, í Sumars eilífu samvistir, sjálfur tak vora sál.

---

Sólin réttlætis, sæll Jesú! sól fegri ljóma ber, sól upprennandi Sumars enn nú, sól blessuð vertu mér, sól huggunar í sorgunum, sól gledi og fagnadar, sól qvittunar frá syndunum, sól allskyns fagnadar, sól æfinnar þá sigur mín, sól mér upprenni, Jesú! þín, sól = hjartann mig og synda frí, sólar grams leidi í høll, sólar þeim dýrdar salnum í, sól þerrar tárin øll, sól þar ei hindra sorgar ský, sól fegri klædist mjøll.

---

## B) Hátída = vers.

### a) Á Jólanótt.

Upsfánga dagur dauda míns, Drottinn! þá kémur ad, hyl mig í undum hjarta þíns, hef eg þar gódann stad, eilífrar gledi og svo Jól, jafnan haldi med þér, þá er upprunnin sú mér sól, sem ad eg þrái hér, hlakkandi sjer þá hugur minn, Herra! í gledi salinn þinn, uppá þad hryggdar eina skál, eg vil nú súpa fús, þegar þér sjálfum þykir mál, þá leid mig í þín hús, eg fel þér hjarta, sinni og sál, sætasti minn Jesús!

---

Jacobs stjarna upprunnin er, og oss nú af Guds náð skín, vøndur Jesse nú blómgun ber, blessun sú aldrei dvín, ein meya hefir alið son, orð guddómligt varð hold, eilífs lífs gefst því æðsta von, oss sem lifum á fold, føgnum nú fæðing Frelsarans, flýum ýdrandi strax til hans, látum hans lof ei líða rírð, lýsum og hrósum því, með fagnaði eru oss færð og skírð, friðar tíðindi ný, sé Guði Føður sjálfum dýrð, súngin upphæðum í.

## A Jólum.

Fagni nú himnar, fagni jørð, fæddur er Jesús oss, fagni nú øll hans friðkeipt hjørð, fagnandi lífsins hnoss, með ørmum trúar í elsku og ást, offrandi þakklæte, að því skyldum vèr auðmjúkt dást, ei draga slíkt í hlé, úr Føðursins skauti frið og náð, færði oss blessað meyar sáð, af øllum sem hafa ønd og mál, aukist Guðs vegsemd blíð, í øllum áttum fyrir útan tál, allstaðar fyrr og síð, hans lof útbreiði hvør ein sál, sem himin og jørð eru víð.

---

Fæðíng í syndum fleckar mig, fæðíng Jesú hreinsar; fæðíngin mín er fátæklig,

fæding Jesú audgat; í fæding tárum fécc eg sád, fæding Jesú huggar; í fæding er dauda fyrir spád, fæding Jesú lífgar; fædumst til eymda allir vér, en Jesú fæding hagræder; fæding ad nýu færi oss nú, fædingin Guds sonar; fæddum Gudi æ fagna þú, er fæding hans bodud var; fædingin þín, fæddi Jesú! fædi oss til dýrdar.

---

Fæddur er Jesús fögnum vér, fridurinn kominn því, á milli Guds og manna er, midast burt rauna ský, upprunnin fögur edla skjær, er Jacobs stjarnan blíd, Betlehems svala brunnur kjær, býdst fram örþyrstum lýd, á reisi döggin sýnir sig, sól skein réttlætis prýdilig, grátur er horfin, gledin sjest, Guds Sonur hjá oss er, rótin Jesse nú blómgast best, braudid lífs veitist hér, ó þú rós Sarons á þér fest, allra vor trú sem ber.

---

Blessadur Gud vor blessi Jól, blessadur tignar hár, Jesú réttlætis sanna sól, sigurvegarinn klár, ó þú nýfæddi Kóngur kjær! kom í mitt hjartans hús, med anda þín-

allt hvað með oss býr unni þér, ó Jesú Guð og mann!

---

Eilífrar sælu yndis Jól, upp munu renna skjótt, ljómar þar fögur lífsins sól, sem lýðum birtist í nótt, mæðu þá hverfa mirkurin, mótlæti enginn sjer, eins og míns Jesú útlegðin, umbreitt í sælu er, þótt Jesús lægi í hey og hálm, eg hef það fyrir minn Jóla sálm, þar sálar fátækt og meinin mín, fyrir mótlæti Jesú þver, lángt mun ei þar til lofsætt skín, ljós fyrir augum mér, og opinberast sú dýrð ei dvín, Drottinn Jesú hjá þér.

---

Senn munu oss skína sigur Jól, þó synd og eymd skyggi á, rennur þá skjær réttlætis sól, er reifum vefjast má, að Jesús barst oss á hey og hálm, haldin fátæklega; gjöri eg að Jóla gleði sálm, grátfegin andlega, í anda volaðir allir fá, umvafðir syndum bót þar á, sem taka Jesúm í trúar arm, til þess borinn á jörð, að líða hér í holdi harm, og heimfæra sáttargjörð, vært þú í Gudi glaðvær hvarm, Guðs endurleysta hjörð.

---

Í myrkrum synda og mótlætis, mædst höfum lánga tíd, en ljómi Guds dýrdar andlitis, og hans ímindin fríd, vor nýfæddi Jesús nádar-sús, nú skjær oss upprennur, uppljómandi vort andar hús, æ þér hvør lífs kraptur, þjóni med trú og þolgjædi, þídri hógværd og bæninni, fridur þinn skíni allra á, andar og lífsins hag, er þér blídni og elsku tjá, vid ydi og mótgángs slag, unn oss þér halda øllum hjá, eilífann Jóladag.

---

Jesús veri vort Jólaskart, Jesús sé æ med mér, Jesú ord veri mín Jóla art, Jesús mig taki ad sér, vek Jesús þann er svaf í synd, sjúkum vert Jesús hægd, sé Jesús þyrstum svala lind, send þú oss Jesús vægd, Jesús huggi mig hriggvann mann, handleid þú Jesú vegviltann, frelsa, ó Jesú! fólkid þitt, finn Jesús týndann saud, um sár vor Jesús sjálfur bitt, svaungum vert Jesús braud, hreinsa ó Jesú! hjartad mitt, haf Jesús oss fra naud.

---

Nú er uppfylling tímans téd, tímgast Arons vøndur; Imanúel Gud er oss med, á reisid døgg fellur, hirdir saudanna sendist þér, sem Abel teikna vann, fyrirmindanir falla hér, fenginn er Gud og mann, sáttmáls ørkin oss sækir heim, sjøfalda ljósa stjakanna geim, líf, heill, sáluhjálp skjótt eg finn, fyrst Jésse rót er græn, sje eg nú góda Eirorminn, á hann mín sála mæn, Jól andar bestu, Jesú minn! Já og amen er bæn.

Sólar uppruna' sje eg nú, í svartnætti mótlætis, vid þína fæding, vor Jesú! veikum til indælis; hafi náttúrleg himin sól, haft krapt varma og ljóss, þá ljós-vermist nú þessi Jól, í þér, Jesú! øllum oss, leiptradu í hjarta, lífga sál, lífs anda vermdu, helga mál, sólskín Gudræknis send oss hér, Sólar krapt réttlætis, þín Sólar børn ad séum vér, sól-bjartir innvortis, og sól fegri um eilífd syngjum þér, sólar ljód Gudræknis.

Hjartans yndælust happa stund, hugarins rósemd frid, nú upprennur í nádar mund,

nálæga Jóla tíd, hér er Jesús sem hjálpar best, hönd Jesú réttist mér, sjálfum Jesú eg samtengist, sök mína Jesús ber, ó! Jesús grætur eins og barn, æ! hvad Jesús er nádar gjarn, vöggu tár Jesú væti kinn, verm Jesú innra mann, barns óp Jesú kýs bænstyrk minn; berni Jesú eg ann, kom Jesú! hér med kjærleik þinn, kveyn, Jesú! hjarta rann.

---

Þolinmædi er mikil þín, mildust réttlætis sól! ad þitt nádar ljós yfir oss skín, enn nú um þessi Jól, mjög höfum þó opt misbrotid, en mikil heilsa oss skér, miklum vér því þitt módur géd, minn Jesú! audmjúker, mikil furduverk, mikil nád, mesta hjálprædi oss er tjád, ó! hvad er þó sú símindan, oss sem ad veitist nú, hjá eilífrar gledi alskódan, algjörlega sjest þú, lát oss ei hennar verda van, voldugasti Jesú!

---

Jesús er kominn finn hann fljótt, fyrst hann þig heimsækir, bjód honum gisting nú í nótt, og náqvæmar vidtektir; leif honum hjarta húsin þín, hreinsud med blódi hans, géf honum tára gledi vín, med greidvikni

kjærleikans, ef úthýsir honum, eilíft bann, yfir þig fellur, vesæll mann! medtakird' hann þá muntu fá, möttúlinn réttlætis, ef hann þér gistir ætíd hjá, einkis fer göds á mis, hann lofar þér sig sjálfann sjá, í sælgjæti réttlætis.

---

Margur veit eg ad mænir nú, med trúar augunum, uppá þig, gódi Gud Jesú! gladur á Jólunum; útbreidda trúar armana, ad taka sig ad sér, og hjartans ástraka hvarmana, huggandi sig í þér; í þeirra tölu aumaster, ó Jesú gódi! komum vér, í trúar vörn þig takandi, tárin vor laugi þig, vidkvæma hjartad vaggan sé, vodir, bæn audmjúklig, kjærleiki, ljós ókulnandi, koss, trúin ástúdlig.

---

Fögnum nú Jesú frelsingjar, fögnum nú kristnir menn! fögnudur Jesú fædingar, fagnandi géfst oss enn, fagnadar hátíd frídri á, fagnandi séum vér, fagnadar bodskap fyrst oss tjá, fagnandi Englarner, fagni nú hvör ein fridkeypt sál, fagni vor hjörtu, hugur, mál, fagni nú allt hvad fagna kann, fagni himin og jörd, fagnandi þöckum fögnud þann,

fagnandi Drottins hjörd, fagnandi prísum Frelsarann, fagnadar med lofgjörd.

---

Jacobs stigi á Jólunum, Jesús oss vertu hér, um hvörn vér nú í andanum, uppstígum Gud fyrir, trúin vor séu tröppurnar, til himins liggjandi, greidendur vegar Guds Englar, gángrúmid kjærleiki, allir kraptar þess orki best, ad þessi reisa vel luckist, ó Jesú! drag oss eptir þér, aflvana ferda menn, ó Jesú! þess er þurfum vér, þín veiti miskun enn, ó Jesu! bædi á himni og hér, hessist þín vegsembdin.

---

Dalverpis liljan dýrdlega, Drottinn vor Jesús ert, ofanstíginn í eymdina, ad vort hjálprædi sért, þessarar lilju lífs kraptinn, lén oss á Jólunum, svo íbúdardalur séum þinn, sorga í bólunum, hjartans dalverpid hýsi þig, hjörtun fyrir þér opni sig, hjartnanna rós svo heitir þú, í hjörtunum ilmandi, hjartad þig einann elski nú, af öllu hjarta þad sé, í hjarta þínu oss hyl, Jesú! hjörtun þig vardveiti.

---

b) Á Nýári.

Allir dagar sitt eiga qvøld, ár, vikur, mánuder, lídur svo tídin øld af øld, inn til þess heimur þver, ad lokum komid ár er eitt, enn fyrir Drottins nád, aví! vér høfum ílla breytt, og glæpum nidur sád, en hans blessada ástar þel, allt gjørdi oss til besta vel, hvad skulum gjalda Gudi á mót, gjædskir og þollund hans? á hann trúum med yfirbót, afleggjum synda fans, og bidjum líknar innst af rót, í nafni Lausnarans.

---

Enn er oss gefid árid nýtt, eilífi Gud! eg bid, gef oss þad verdi gott og blídt, gef oss þitt hjálpar lid, gef þú oss bjørg og blessa ávallt, burtrek allt kíf og tál, gefdu oss frid og farsæl allt, fyrir vort líf og sál; gefdu þig háleitt heidrum vér, heilagi Gud, sem verdugt er, gef oss þig lofum lifandi, lífs med réttum føgnud, gef oss þig dýrkum deyandi, dýrd þín sé margføldud, sídan um eilífd syngjandi, sannheilagur vor Gud!

---

Alls góds streymandi uppspretta, aldanna

Fadir hár! fyrir Jesúm vorn Frelsara, forsæl oss þetta ár, árs ins umlidna alla synd, umsnú í réttlæti, ársins inngengna ángurs mind, yfirklæd glèdinni; ára tala vor ó-komin, ó Jesú! sè þèr befalin; en medan løfum lífs á grund, leid þú og stjórna oss, þegar oss særir sorgar und, sikra gjørvallann kross, svo eptir daudann þinn fáum fund, fegursta nýárs hnoss.

---

O þú sálnanna elskarinn, eilíf gædskunnar lind! á þessum degi umskorinn, skæddur vorri mind; dreitinn sem af þèr draupdi þá, daudvona saudi þín, blessadann lát þú breidast á, bænina heyrdu mín, fyrirgèf þú ad setum vèr, ferill glæpanna burt frá þèr, æ Gudt oss til þín aptur snú. ydrunar fyrir tár, blódfadminn móti breid oss þú, beidist þess trúin klár, í þínu nafni, ó Jesú! upp byrjum svo nýtt ár.

---

O Jesú! sem fyrir auma þjód, umskéra hold þitt lètst, hreinsi oss vel þitt heilagt blód, og hjarta vort þvoi best, í blessadann ljúfa blódfadm þinn, brotlegir skrídum nú, blessadur sálna brúdguminn, burt hrek

oss ecki þú, blessað nafn gefið prísvar þér, það er vort blessað frelsi hér, friðar firmament fastasta, frelsi, hjálp, qvittun, hlíf, á ári þessu inngengna, ó Jesú! hjá oss blíf, svo blíðt fyrir nafn þitt blessaða, blessist vor sál og líf.

---

Kórónа árið, Kristur minn! með kröptugri blessun þín, eilífa sálna svölunin, og saðníng sem aldrei dvín, umskér vor hjörtu, Herra hýr! með heilags Anda náð, þitt nafn vegsamist, Drottinn dýr! dýrð sé þér ætíð tjáð, andans hræríngu, ó Jesú! ætíð gef oss og rétta trú, umvef oss þinni elsku mest, eilífur, tignar hár, þín hægri hönd oss hjúkri best, og hreinsi vor gjörvöll sár, blóð þitt, Jesú! oss ádreifist, eilíft gef oss nýtt ár.

---

Forgéfins þú mér, góði Guð! géfur lífs enga tíð, veit mér þinn krapt að velgrundað, vitska mig ár og síð, leiði hvört fótmál, lífsins stig, loknum þá árs er hríng, yfirvegandi þecki þig, og þína náð allt um

kríng, géfdu mín athøfn vandist vel, med vísdóm og edla hjarta þel, svo framt þú kallar, Fadir! mig, fyrir allsherjar dóm, ad syndauna ydja saurugleg, seki ei barn þitt tóm, heldur sikunsaka heidri þig, med himinsins dýrdar róm.

---

Jesú umskurnar svidi og sár, sé oss ein hressíng blíd, þetta eptirkomandi ár, og alla lífsins tíd; ásamt hans nafni verndin vor, veri og skjøldur trúr, til blessunar vor oss vøkvi spor, hans varmasti benja skúr, og allar stéttir innsiglist, umskurnar sári Jesú best, í blódi hans vor blódug sár, blædandi svali sér, þegar á dinur daud= ans fár, og dvína kraptarnir, hreppi þá fridar eilíf ár, allir rétt=trúadir.

---

Afliíad høfum eitt ár vér, undir Guds hlífdar skjøld, og nú uppbyrjum annad hér, vid ytsta heimsins qvøld, Israels gledi, andar ljós, innskyum til þín nú, ad vorrar eisku eblir rós, í rétt lifandi trú; Jesú umskurnar døggin dýr, drjúpi á oss þá mædan lýr, nafnid hans frelsi naud=

Réttlætis sólin eilíf er, úr skýum daudans hýr, øllum Guds børnum eilíf hér, upprunnin føgur og dýr, sigurvegarinn sæll Jesú! sjálfur reist dauda frá, frumburdur daudra frægstur nú, fridar høfdíngi sá, sigradi Djøful, synd og deyd, sitt fólk leysti af allri neyd, full þackad aldrei fáum þér, Frelsarinn Jesú kjær! tídt þó ad mættum tala vér, túngum Englanna nær, virdíng, makt, speki og valdid ber, vegsemd og lofgjørd skjær.

---

Blessadur fálna Brúdguminn, brunnurinn elskunnar, heilagur kom í hjartad inn, heilsu gjøf brúdinnar, upp. ertu risinn elskan skjær, upprístu nú í mér, uppvek mitt hjarta og á hræ, med ást á móti þér; þér sé nú eilíf þackargjørd, af þinni kristni hér á jørd, ad þú keyptir oss qvølum frá, krossfesta elskan mín! þú létst oss auma finna og fá, fridland hjá Fødur þín, svo heilagt þér sýngum Hósianna, í himneskri dýrd sem skín.

---

Sigurvegarinn sæll vert þú, sálar brúdgumínn trúr! réttlætis sólin runnin nú, rauda hafs djúpi úr, pínu og daudans, sem ad sér, sál þinni þrengdu ad, því er mér nóg ad þú lifer, bad fær mig og lífgad, eckért fær syndin unnid mein, engin fordæmt løgmálsins grein, hvar er nú maktin helvítis? hvar daudans broddur sár? atqvædi eru unnin- þess,] afþurkud hryggdar tár, sigurvegara sigur vers, syngjum um eilíf ár.

---

Daudans úr hafi aptur oss, upp er lífs runnin sól, sem ad ádur í qvøl á kross, klárann sinn glansa fól, syndar daudans og Satans vøld, sigrad fékk hún og stitt, áfallin þúngu Adams gjøld, urdu svo géfin qvitt; fagni því hjarta, fagni mál, fagni vor endurleysta sál, fagnandi lofum Frelsarann, fagnadar hátíd á, fagni hvør sinni fridgjøf mann, fagnadur klíngi sá, fagnadar uns í fridum rann, føgnum vér Gudi hjá.

---

## d) Á Uppstigningar dag.

O Jesú Guds Son eingétinn! allir þig lofum vér, heilágur sigurhøfdínginn, heidur

og dýrð sé þér, uppstíginn himna ertu til, Endurlausnarinn kjær! aptur kémur annad bil, eflaust því trúum vær, lát þú oss mæta miskun þá, minnstu ei vorar syndir á, fyrir það harða heijar fár, hér sem leidst fyrir oss, beiska hrigd. skjálfta, bænartár, bønd, svipur, nagla, kross, bitrastann dauda, blódug sár, og blessadann dreira foss.

---

Í dag er Kristur uppstíginn, aptur í himnarann, í dýrd síns Føðurs inngenginn, eilífur Gud og mann! hann upplauk fyrir oss himninum, hvør aptur luktur var, svo vér fríir frá syndunum, sælu víst hefdum þar, fyrir oss bidur Frelsarinn, Føðurinn, Jesús Herra minn, og keypti oss fagrann fridarstad, farsælann himnum á, svo eptir dapurt daudans bad, Drottinn vorn fengjum sjá, sem oss hefir lífid útvegad, um eilífd, Amen Já.

---

## e) Á Hvítasunnu.

Ei fæ eg sannleiks andinn kjær, uppreiknad gjafir þín, ómetanlegar eru þær, øllum skilníngi mín, þú gefur hjartans hægd og

firð, huggun og þolgjæði, kallar, upplýsir, helgar hyrð, Herrans á jörðunni, réttann kjærleika rækka þú, rætir Guðs elsku, von og trú, arfleifðar pantur útvöldum, upptendrar bænrækni, sannfæríng heimi setur um, synd, dóm og réttlæti, ver öllum sálar vandræðum, vegsemd þín eilíf sé!

---

O Guð! sem helgann Anda þinn, útsendir himnum frá, Postulum 12 í sama sinn, sá er uppfræddi þá, ýmsum túngum þá tala létst, tignar stórmerkin sín, vort túngu mál með blessan best, begáfi mildin þín, anda bænar oss inngéf þú, anda náðar oss sendu nú, vondum orðum oss vernda frá, vor géf þú unun sé, um heilagt nafn þitt, í heiðri að tjá, með hjarta og málfæri, allt það sem draga anda má, einn Guð þig vegsami!

---

## f) Á Trinitatis hátíð.

Þrenníngu hátíð haldin er, heilögum Drottni stór, hann skulum dýrka og heiðra vér, með heilögum Engla kór hingað sendi Guð huggarann, heilagann Anda sinn, í hvörs kristins manns hjarta rann, heilög kom ástgjöfin,

yfir Postul'a er kom fyrst, á Hvítasunnu í hægum gust, hann biðjum ætíð hjá oss sé, af hjarta eg það kýs, Herranum vorum hærsta sé, heiður, lofgjörð og prís, og sigur jafnan syngjandi, í sællri Paradís.

---

## C) Helgidaga-vers.

### a) Á Föstu.

O Guð! lát helgann anda þinn, oss veita styrk og náð, svo hugleiðum í hvört eitt sinn, það himneska gjæðsku ráð, þá svo elskaðir aumann heim, útgafst þinn kjæra Son, til endurlausnar öllum þeim, sem á honum hafa von, historíu pínu Herrans því, höfum dagliga minni í, fullnaðar bót hann fyrir oss vann, friðstilltist reiðin hörð, týnda sauði svo aptur fann, sinni lið veitti hjörð, með Föður og Anda heiðrum hann, í hærstri þakkargjörð.

---

Lof og dýrð sé þér, Lausnari minn! leiðstu hér dauðans pín, krossfaðm blessaðann breið þú þinn, blíðt yfir sálu mín, sætasta síðu

fárid þitt, sé nú mitt grida hús, hvörki sál og hjartad mitt. hjarta blód þitt Jesús, í þínum fadmi útbreiddum, unn mér ad blífa í heimmum, í þínum fadmi ad enda líf, upprísa í fadmi þér, í þínum fadmi eilíft líf, af miskun géf þú mér, um eilífd svo hjá þér alla blíf, aldrei sú sæla þver.

---

## b) Á Skírdag.

Herra Jesú! vort hjálpar ráð, hæst sé þér virdíng veitt, andligt bordhald þín eilíf náð, oss hefur nú tilreidt, heilagt hold þitt og blessad blód, vid bord þitt medtökum vær, ó hvad þú elskar auma þjód, ó Herra Jesú kjær! andligt húngur oss auktu hér, andliga svo ad mettumst vér, andligt ransak lát anda þínn, inn hjá oss planta nú, andlegt líferni í hvört sínn, ydrun og rétta trú, blessadi sálar brúdguminn, bænheyr oss ó Jesú!

---

## c) ÁFöstudaginn lánga.

Þó föstudags lánga lídi eg sorg, kúinn í eymdardal, heppnast nóg gledi í himna=

borg, og heilagra dýrdar sal, Páska daganna prýdi og lyst, prófa mun eg hjá þér, hærst nefndi Guð og Herra Krist! heidur sá aldrei þver; alla sorg bættir útlagans, um eilífd skínandi í dýrdar krans, þar mun eg lofa lidsemd þín, Lausnarinn hjarta kjær! nafns þíns hrós syngi sálin mín, sífellt þá hrygdin slær, láttu mig vera, líknin fín, lífs og daudans þér nær.

---

Föstudags qvøld þá komid var, Kristur til grafar hné, og hvíldist frí af þrautum þar, þángad til hann uppsté, á mildri Páska morgun stund, mektugum sigri med, og gledifullri gjædsku lund, gafst oss þá herfángid, lát mig vel bera birdi mín, blessadi Herra! ad dæmi þín, grøfin verdi mitt svefnhús sætt, sálina tak ad þér, er þá allt heimsins bølid bætt, blessunin eptir-fer, vid engu sídan illu hætt, upprisan gløð þá sker.

---

## 11) A Bænadag.

Volduga Fadir! vernda þú, vors Kóngs hásætid, haldt honum æ vid hreina trú,

hans ríkjum veittu frid, stirkur þíns anda styðji rétt, stjórnendur kristninnar, sérhvør ad lifi í sínu stétt, sem þitt bod útvísar, varna stirjøld og villuróm, vid haldtu þínum kristindóm, heilaga trú og hreinánn fid, helsting Andskotans megn, blessa vort land og bygdar lýd, bistur oss aldrei hegn, heimleid þitt fólk í himna frid, heims alla mædu gegn.

---

Himneski dýrdar Köngur klár! Kóng vorn blessadu nú, í rósemi og farsæld, Herra hár! hans daga fjølga þú, vertu hans hlífd og vørnin hrein, vernda hann allt um kríng, eins og þinn eigin augastein, eda þinn signets hríng, leid hann vid þína hægri hønd, hønd þín velsigni hans líf og ønd, eldligur þinna Engla múr, umkríngi hans tignarstól, vertu hans ljós og vegur trúr, vígi, líf, skjøldur, sól, hédan þá leidist heimi úr, hans vertu eilíft skjól!

---

## g) Á Sunnudøgum.

Vikunnar tídin endud er, eilífi Fadir kjær! lof, æra, dýrd og þøck sé þér, þú sem oss

miskun fær, forláti oss þín Fødur náð, í Frelsarans Jesú nafn, óþacktætið og íllsku sáð, og allra misgjørda safn, uppbyrjast vikan ønnur hér, ó Drottinn! kom og líkna mér, blessa vor efni, bjørg og fé, blídasti Jesú minn! erfidis søfn og atburdi, øndu, líf, brjóst og sinn, lífs vøku stund að lidinni, leid oss í himininn.

---

Heilagi ljóssins Herra hár! er hvíldar dag innsetter, helgunar brunnur hreinn og klár, helga oss nú í þér, hvíl þig nú, ljúfi Herra kjær! í húsi vors hjarta ranns, einninn géf líka allir vær, í þér hvílumst til sanns, bless oss með þinni blessun nú, blessadi Herra minn Jesú! eilíf þín blessun alla tíð, yfir oss blessud sé, á øllum lífstundum árla- og síð, í inngángi og framgángi, innsiglist oss sú blessan blíd, bædi í vøku og svefni.



# Annar Flockur,

innihelður

## Qvøld= og Morgun=vers.

### a) Morgun=vers.

Lifandi Jesú! lof sé þér, liðin er þessi nótt, vel hefir yfir vakað mér, þín voldug Engla gnótt, svo hefir eckert sakað hér, svaf eg í góðum frið, fyrir það elskan øll þér ber, mitt eilíft hjá'prædið, einninn daginn sem upp ljómar, allann himin til farsælðar, eg er biðjandi, einn Guð! þig, aðgjætslu veittu mér, annars ei óhætt er um mig, eg því á reiki fer, Guðdómsins þrenning gøfugleg, góð eining stjórni mér.

Lofaður sértu góði Guð! gøfgi þig øndin mín, að eg nú heilbrigð uppvøknuð, ei fyr=

ir miskun þín, heilsugjafarinn hefir minn, heljar mér fordad stig, andi minn skal því æ hvørt sinn, í honum gledja sig, allt það sem hefir andardrátt, útbreidi hans dýrd í hvørri átt, helst þegar stundin hætt ad ber, hjálpi mér kraptur þinn, blóddropar þínir blessadir, bæti øll misverkin, leid mig sídan med ljúfum þér, í lífs ædsta føgnudinn.

---

Ljósanna fødur lofgjørd sé, lidin er þessi nótt, hans undir vængja hjálprædi, hefur mér ordid rótt, í Guds nafni eg uppris nú, og byrja þennann dag, innrættu hjá mér, ó Jesú! ord þitt, enn lífsins hag, virdstu ad blessa veikann minn, villa lát mig ei djøfulinn, af þínum vegi, elskan gód! andvarpid heyrdu mitt; fyrir þín sár og blessad blód, brotin gefdu mér qvitt; leid mig af daudans dimmri slód, í dýrdar ríki þitt.

---

Upp er nú runnin sólin sæl, sæl elskan, Jesu klár! klár sem fyrr undir hvarf vorn hæl, hæli vor eru þín sár, sárkaldt þá daudinn bakar bad, badid þíns unda flóds, flód af syndanna þvoi það, þadan til ædsta góds, gódi

Jesú! þitt legðu lið, líðnum géf, þú þinn ástar frið, friðarins Guð sem þjónar þín, þínum hjá lambsins trón, trónanna sveitin skjær hvar skín, skín þar Júda kyns ljón, ljóni því æra sýngist sín, sínum með fögrum tón.

---

Lof, dýrð og æra þíð sé þér, þrenníngin guðdóms há, að þínir virðtust Englarnir, oss í nótt vaka hjá, biðjandi framar blessun þín, brot synda fær í lag, heillasøm náðar høndin þín, hjúkri mér nú í dag; svo áform mitt og athafnir, allt framkomi svo þóknist þér, um allar stundir æfinnar, unn þú mér náðar þín, blessaðir Jesú blóðstraumar, blæði á sálu mín, eilíft Drottinn allsherjar! oss leið í dýrð til þín.

---

Dagur nú lýsir, Drottinn kjær! dimman er horfin svørt, rennur upp sólar roðinn skjær, réttlætis sólin bjørt; ljómi þíns anda lýsi mér, ljómi upp hjarta og sál, samfara verði svo sem ber, sinni, hjarta og mál, þíða þér færi þakkargjørð, þrenníngin tignar stór, heiðri þig menn, himin og jørð, og heilagra Engla kór, allt það sem hefir andardrátt, eilífann Drottinn

lofi hátt, allt sem heitir og allt hvad er, allt þad sem hræraſt má, ljúflegaſt færi lofid þér, lambid Guds himnum á, og eilíft lof sem aldrei þver, Amen, Halelúja.

---

Drottinn! þú gefur daginn enn, af dásemd þinni ad sjá, oss sem ad erum aumir menn, illa margt gjørum tjá, láttu þíns anda lífſins veg, leida oss enn í dag, þér svo ad verdi þóknanleg, þjónkan og vinnulag, virdstu ad geyma oss voda frá, vondu sem kann ad falla uppá, breida veginum bæg oss af, blessadur Gud Jesús! leidi mig sá sem lífid gaf, ljúfur og nádar fús, í gégnum daudans dimma haf, dýrdar í sælu hús.

---

Í Guds nafni sál mín gaungum nú, glød þessa morgunstund, til Sonar Guds í sannri trú, sérhvør hans blódug und, opin stendur en ecki læst, á eg svo von á þér, dásamleg þrenníng dýrdar glæst, dýrkist þitt nafn af mér, sárin þín lækni sárin mín, svali mér Jesú blódug pín, himneski Fadir! høndin þín, hjástod mín veri í dag, andinn þinn hressi øndu mín, og allann

minn blessi hag, leid mig svo þegar lífid dvín, í ljóss = barna samfélag.

---

Miskunsamasti, máttugi, minn Gud fullur af nád! eg aum mannéskja medkenni, mildi og hjálpar ràd, á morgni þessum er þú mér, allt frá módurlífi, til lífs og andar audsýndir, en nú framhaldandi; ecki kann eg ad upptelja, alla þína velgjørnínga, önd mín þó dáist ad því mest, fyrir upphaf heimsins þú, elsku þína auglýsast léztst, er þad mín lausnin trú, þegar krossdauda borgun best, blódid var míns Jesús.

---

Í Jesú nafni uppstadinn, eg byrja þennann dag, eilíft lof sé þér einíng þrenn, allann minn, lífsins hag, annast hefur þín nád í nótt, neyd og ólucku frá, vardveitti mig þín gjæsku gnótt, greidist þér vegsemd há, því vil eg nú af hjarta hér, heidur og lofgjørd sýnga þér, ó Drottinn! láttu auda þinn, efla mig þar til best, virdstu ad styrkja veikleik minn, ad vanda þinn lofstýr mest, og þar um tala sérhvørt sinn, svo ad þér velþóknist.

---

Eg kalla, Drottinn dýr! til þín, dags þess-um morgni á, líknaraugum þú lít til mín, og lát mig miskun fá, virdstu mér aumum leggja lid, leid mig af glæpa slód, seig þú mig qvittann syndir vid, Sonar þíns fyrir blód; ó Drottinn Jesú, minnstu mín! miskunar verndin blessud þín, yfir mér standi mild og merk, medan eg lifi hér, heilagra Engla hlífdin sterk, hafi nú gát á mér, svo munu øll mín vikuverk, verda blessud í þér.

---

Vardveittu mig og mína í dag, minn Gud! frá allri pín, veit þú oss hagstædt vednrlag, velsigni oss høndin þín, lát oss í vorri lifa stjett, til lofs og dýrdar þér, og svo framgánga ætíd rétt, eins og rétt-kristnum ber, en þá vor hérvist enda fær, og heiminn qvedja skulum vær, géf oss þá, Drottinn! himneskt hnoss, høndla í réttri trú, fyrir blessadann Jesú benja foss, bæn mína álít þú, fridur Guds sé med øllum oss, æfinlega og nú.

---

Horfin er nætur dimman døck, dagsljósid gledur menn, hljóti vegsemd, heidur og

þøck, hátofleg eining þrenn; oss hefur skýlt með ástar væng, afvendað neyð og pín, verum glaðir gengnir af sæng, oss geimdi miskun þín, veri í dag vort verndar skjól, voldug réttlætis blessuð sól, hjálpi oss øllum høndin hans, og hjúkri líf og sál, hug vorn hefji til himna ranns, hrigðar þá dreckum skál, innleið síðan í Engla krans, oss þegar þykir mál.

---

Gefi oss øllum góðann dag, Guð Faðir á himna trón, allrar kristninnar allann hag, annist hans fyrirsjón. Englarnir beri børnin hans, blessuð á høndum sér, hér áfram inn til himna ranns, heim þegar lífið þver, geym oss, Drottinn! á brjóst og bak, blessandi sérhvørt andartak, ó Jesú! vertu øllum allt, alltíð fyrir þinn deyð, hvørt sem vér þol, um heitt eða kaldt hjúkri þín mildin greið, hvørt sem vér smøckum súrt eða salt, sikra þú alla neyð.

---

## b) Qvøld-vers.

Dagurinn liðinn er nú enn, enn nætur byrjast tíð, tíð dagsins fyrir þøck sé þrenn,

þrenningin Guddóms blíð! blíð af hug hjarta og munni með, meðlætis fyrir hag, hagqvæmt Guðs náðar glaðdi geð, geð vort sorgfullt í dag, dagur vors lífs nær úti er, er þá vort líf, minn Guð! í þér, þér selum oss í nótt enn nú, nú qvøldar, vertu hja, hjá oss í voru brjósti bú, bústað þinn himnum á, á efsta degi, ó Jesú! unn oss þér vera hjá!

---

Dagur er liðinn komið er qvøld, qvøldar svo æfi stund, stund, dagar, vikur, ár og øld, øld boðar dauðans blund, blund þann síðasta, Herra hýr! hýrann oss géf þú hér, hér þá líf stundlegt frá oss flýr. flýum þá til þín vér, vér høfum þar á trausta trú, trúudum burt ei skúfir þú; þú sem fyrir oss líf þitt létst, létst oss svo hreppa frið, friðþægðir fyrir blóð þitt best, best sættir Føðurinn við, við það þín dýrð margfaldist mest, mest sé þér þakklætið.

---

Dagur er liðinn komið er qvøld, qvøldar svo æfi manns, manns síns lífdagar, ár og øld, øld burtlíður tímans, tímann ber oss að vakta víst, víst meðan frambýðst náð,

náðinni svo vér svipthumst sjst,
slíks vangáð, gáðu Jesú! oss øllum
vér mættum í hvørjum stað, staðfast
þig einann á, á meðan lifum hér, hér þeg-
ar heimi førum frá, frá mæðu leysumst vér,
vér géf øðlumst í sælu að sjá, sjá þig Guð!
um aldir.

---

Dagur er liðinn komið er qvøld, qvøldar
svo æfi skeið, skeiðar í burt sú auma øld,
øldúngis kafin neyð, neyð vora, Drottinn!
sjálfur sjá, sjá oss í vægð og náð, náð
þína treistum eflaust á, á þig stendur vort
ráð, ráð, hetja, kraptur þá ert þú, þú Drott-
inn! þeim sem lifa í trú, trú vora á efstu
styrk þú stund, stund sú oss hagar best,
best sé þá Jesú! opin und, und sálar lækn-
ing mest, mest kjósum vér þann friðar fund,
fundið Guðs auglit sjest.

---

Dagur er liðinn komið er qvøld, qvøldar
svo æfi tíð, tíð lífs er réttnefnd eimða øld, øld-
úngis sorg og stríð, stríð hvørt með æfi degi
dvín, dvínar øll sorgin þá, þá eilífðar dagur
skjær oss skín, skínandi himnum á, á jørð sorg-
bitnir veinum vér, vér sem þá føgnum glað,

værer, ersídi vort er Þrotid því, því er oss hvíldin vís, vís allra gjæda nægdin ný, nýann þá hefsium prís, prísandi Drottinn ástsemd í, í sællri Paradís.

---

Þessa dags er nú komid qvöld, qvöldar svo æfi tíd, tídin svo lidur öld af öld, öldúngis burt um síd, sídasti og fyrsti vor þú ver, verndarinn Jesú kjær! kjæra gjörandi' og þecka þér, þér svo ad lifum vær, værar géf þú oss nádir nú, nú vil eg bidja, ó Jesú! Jesú þín blessud hjálpar hönd, höndli vid oss í nád, nádar hyrtíngar vikí vönd, vönd dagsins yfirrád, rád, Fadir gódur! allra önd, önd vor þér lof sær tjád.

---

Þessi dagur á enda er, er skyldt Gud lofum vær, vær gjörum, Drottinn! þackir þér, þér sem oss verndad sær, sær þú oss öllum líkn og lid, lid Engla verndar oss, oss hefir Son þinn fengid frid, fridkeypt á hördum kross, kross hans vort merki figursætt. sætt veri og hlífdar vopn ágjætt, gjættu vor allra nú í nótt, nóttin svo farsæl sé, sé oss og verdi rétt vel rótt, rótt í Jesú fadme, fadmi

nádar oss umgird ótt, óttalaust hvør sofi.

---

Þessa dags stund á enda er, er komin nætur tíd, tíd æfinnar svo fljótt burt fer, fer í hønd dauda stríd, stríd fyrir Jesú þýngsta þitt, þitt veittu fulltíng mér, mér svo nær andlát mætir mitt, mitt frelsíst líf í þér, þér lidinn þacka eg, Drottinn! dag, dag nádar hvørn og greiddann hag, haga svo þaunkum mildur mín, mín verdi synd af fægd, fægd í blódundum þídum þín, þín er miskunar nægd, nægdin gjæda hvar skédur og skín, skíni þér ædsta frægd.

---

Vak hjá oss, Herra! komid er qvøld, qvøld myrkri þreyngir ad, ad flýa undir þinn skjól og skjøld, skjøldur þinn verkar þad, þad megum sofa rétt í ró, rósemd veit, Drott-inn minn! minnumst vors dauda og þenk-jum þó, þó sofi líkaminn, inn í tjaldbúdir eilífar, armædulaus mun vellíst þar, þar verd-ur himnesk sælan sjen, sjen þrenníng tignar há, háleita Jesú blód og ben, ben synda grædir þá, allir sýngjum æ amen, amen, dýrd, Hosanna!

---

Sígur dags húmid yfir ótt, ótt tekur qvølda hér, hér er ei nema sorg og sótt, sótt dauda medfylgir, fylgir Guds børnum qvøl og kross, kross þjádum líkna þú, þú sem leidst fyrir alla oss, oss vægdu, minn Jesú! Jesús Guds Sonur, minnstu mín, mína ønd lángar nú til þín, þín blessud randa lífsins lind, lindin svølunar best, best hreinsi vora søk og synd, syndugir qvitterist, qvitterist gjørvøll mannleg mind, mind Drottins vegsamist.

---

Sólar ljóminn nú dregst frá dyr, dyrmæti Jesú minn! minn stirkur vertu og hjálpin hyr, hyr sálar brúdguminn, inngáktu í mitt hugar hús, hús þad skal tilreidt þér, þér vil eg bjóda fridar fús, fúsliga vist hjá mér, mér þykir qvølda furdu skjótt, skjótt kémur ad mín daudans nótt, nótt gef þá, Jesú! þosi' eg sætt, sætt dreyfki mig þitt blód, blód skuld mín upp þá rjód er rætt, rætt af vid tára flód, flód þad synd mína best fær bætt; bætt sé mín glæpa flód!

---

Dags ljós er frá oss numid nú, nú skyggir húmid á, ælít oss blessud þrenníng þú,

þú vak í nótt oss hjá, hjástod vor sért en hardt ei hefn, hefnd mýktu gjæðsku ør, ør= þjáðum blessa sæng og svefn, svefn værd róliga gjør, gjør þitt fólk verdi af missk= un mett, mettad lífsstundum deyi rétt, rétt= lætis sólin skíni oss skjær, skjær sem er Herr= ans dýrd, dýrdarlegir þá verdum vær, vær komnir þar í hyrd, hyrdir hvør ødrum fagnad fær, fær Guds lof aldrei rírd.

---

Dagur er lidinn nálgast nótt, nótt sídsta dregst svo ad, ad daudans púnkti færist fljótt, fljótt rennur glasid þad, þad skal minna mig ætíd á, á medan lifi eg hér, hérvist= inni snart fer eg frá, frá því sem stundlegt er, er eg girnist og þreyi því, því ad nú qvøldar heimi í, í forsjón þína mig, Gud! eg géf, géf þú mér andláts ró, rólega eg og sætt því sef, sefur øll mædan þó, þó vaki sálin utan ef, efalaust hjá Kristó.

---

Vertu hjá oss, ó Herra! hér, hér lídur dag= inn á, á þig køllum nú, vor Gud! vér, vér bidjum sért oss hjá, hjá oss veri þín hei= løg hønd, hønd sú sem fordar neyd, neyd=

ætíð sé hugfast mér, veit það og síðast verði mitt, á veikri lífs línu hér, sálin mín svo að komist qvitt, klacklaust í dýrð hjá þér.

---

Dags ljóminn burtu bregst nú frá, dimmir af qvøldi skjótt, vertu oss, Herra! veikum hjá, og vernda um þessa nótt, afbrotin géfðu øll vor qvitt, og illsku sem frœmd: um vær, blessaða Jesús blóðið þitt, breid: ist út yfir þær, réttlætis eilíf elsku sól! yfir oss sé þitt vængja skjól, í blóðfaðmi þínum unntu oss, að sofna síðast hér, þú sem að lést þitt líf á kross, líka svo mættum vér, fyrir þinn dauða og dreira foss, Drottinn! það veit þú mér.

---

Hylur oss nætur húmið eitt, himinsins bjarta sól, þrefaldist æra þín, Drottinn! þú sem oss veitir skjól, ó vor misgjørða ótal ský, upprunnin þér til móðs, dags: syndir all: ar drýf þú í, dauða haf Jesú blóðs, hjálp: rœðis tef ei hærsta gnótt, heilnæma géf oss værðar nótt, fel eg í þína hlífðar hønd, hús, qvinnu, menn og børn, eigið lán, heilsu, líf og ønd, líka minn ástvin hvørn,

hvíldar og allskyns heilla grønd, hepti þín friðar vørn.

---

Nær dauðans røckur, Drottinn kjær! dregur sig heim til mín, augna ljósið formyrkvan fær, frátekst mál, heyrnin dvín, yfirgéfinn af øllum hér, einmana-ligg eg þá, en ønd og líf, hef afhendt þér, øll mannleg hjálp er frá, lát mig þá, hærsti Herra minn! hønd minnar trúar leggja inn, í þína sælu síðu und, sem mér fyrr opnuð var, ósfaðann um ockar fund, í þínum faðmi þar, sofni út af þann sæta blund, síðan til eilífðar.

---

Herra Jesú! þér heiður sé, hefir þú verndað mig, í dag frá margskyns mótlæti, mildin þín føðurlig, um nærverandi nætur stund, nálægur vertu mér, veittu mér frið og værann blund, vernda frá myrkra her, útyfir breiðist mig og mitt, miskunar vængja skjólið þitt, géfðu mér, Jesú! gleði og ró, af gjæðsku þinni hér, þá sefur holdið, sálin þó, sannlega vaki í þér, allt þar til byrjast eilíf ró, og útvaldra sælu kjør.

---

Einn dagurinn nú endad fær, eydist svo lífsins tíd, líkasami Fadir lífsins kjær! lof sé þér fyrr og síd, enn hefir himneskt hænan góð, hlíft oss með vængjum sín, frá Guds reidi og satans grimdar móð, svo grandi oss engin pín, enn nú þig bidjum allir vér, ad vort líf og sál vardveitir, misgjørd vora ei minnstu á, miskunar Fadirinn fús! blessan þína oss breid þú á, blessadu menn og hús, í vøku og svefni vert oss hjá, vor blessadi Jesús!

---

Dags og sólar ljós dvín nú enn, dimmir um heimsins lád, eilíf gjædskufull eining þrenn, ad oss hjúkri þín nád, Fadir miskunar! legdu oss lid, ljúfa géf þú oss værd, íllum draumum oss varna vid, vélum, og Satans flærd, geim oss frá meinum, mædu og neyd, miskunar væng þinn yfir oss breid, en þá glas vorrar æfi dvín, eilífur Guds Son klár! forda oss sálar fári og pín, fyrir þitt hjarta sár, þig svo ad lofum þú sem skín, þrennur um eilíf ár.

---

Vertu nú hjá oss, Herra hár! heims qvøldi lídur ad, hvør dagur, vika, øld og ár, ødum

burt hverfur það, dauðans þá yfir dregst oss nótt. Drottinn! þín miskun blíð, hvílast láti oss hægt og rótt, hept þú allt qvala stríð, í signaðri þinni sælu und, sálin vor hvílist laus við grönd, en á meðan vér hjerum hér, heimsins við rauna flag, géf að með ugg og ótta vér, umhugsum sálar hag, eptir lífið géf oss með þér, eilífann gleði dag.

---

Géfðu oss öllum góða nótt, Guð! fyrir utan pín, svo að vér kunnum sætt og rótt, sofa í faðmi þín, vakt hald þú yfir vorri sæng, verndarinn Israel, skýl oss með þínum vörslu væng, vór kjær Emanúel! annastu oss á bak og brjóst, í blundi og voku, leint og ljóst, hvör dúrinn öðrum sætari sé, síðasti bestur þó, hvör dagur öðrum indælli, í Herranum Kristó, hvör fögnuður öðrum farsælli, farsælust eilíf ró.

---

O Guð! sem meður æðstum krapt, ersíði settir dag, en nótt til hvíldar hefir skapt, heldur því enn við lag, af föðurlegri ástar rót, allt gott oss veittir þú, allt þó fremð-

-um þér illt á mót, allt fyrirgéf það nú, þinn Engla skari nú í nótt, nálægist oss svo verði rótt, vertu oss sjálfur, Herra! hjá, hjástoð þín geimi oss best, best þegar lífið endast á, á þér vor trú sé fest; fest oss í örmum þínum þá, þá er vís dýrðin mest.

---

O þú réttlætis sanna sól, Sonur Guðs Jesú minn! undir þitt flý eg ástar skjól, aumust þín barn-kindin, andvarpandi af öllum þrótt, upp til þín, Kóngur hár! léna oss þína líkn í nótt, lát ekkért granda fár, með útbreiddum ástar örmum þín, umfaðma líf og sálu mín, engin svo fái óvinur, af þér mig burtslitið, heldur þar blífi eg blessaður, og behaldi þínum frið, í lífi og dauða, Guð góður! géf mér þitt hjálpræðið.

---

Qvöld þessa dags er komið nú, kom æðsta friðar gnótt, verndarinn besti vor Jesú! vertu hjá oss í nótt, qvöld minnar æfi kémur víst, kortuð lífs stundin er, dauðinn kémur og dveiur síst, Drottinn! hjálpa þú mér, qvöldi heimsins er komið að, kémur

eilífdin eptir það, eilífann géf oss andar frid, ædsti lífgjafarinn, Heilagi Andi, legg mér lid, líknsamur æ hvørt sinn, heyrdu nú, Drottinn! hvørs eg bid, heidrist Guddómur þinn.

---

Dagsljósid oss nú dregst frá sjón, dimmir af qvøldi enn, Jesú! þín fegurst fyrirbón, fridþægi oss aumu menn, láttu blessadann blódfadm þinn, breidast út yfir oss, sem þú útbreiddir aksnakinn, er þú leidst pínu á kross, láttu blessada blódid þitt, brot vor afmá og gjøra qvitt, géf ad vidbúnir verdum vér, þá vor kémur daudastund, géf oss med andláts ord þín hér, ad uppbyrja sídasta blund, æ géf svo hvílumst innlæstir, í þinni sídu und.

---

Fadir ljósanna, Fadir kjær, Fadir eilífur Gud! brunnur lífsins, þig bidjum vær, børnin þín krossþjókud, syndu oss øllum nú í nótt, náqvæma vernd og hlíf, veit ad oss øllum verdi rótt, vardveittu sál og líf, þitt Engla lid fé oss allt um kring, óbryngdull múr og stadfesting, widir þad skjólid flý eg

fús, frelstur af allri pín, frá myrkra veldi menn og hús, misskun varðveiti þín, í þínu nafni, ó Jesús! álíttu beiðni mín.

---

Ó þú réttlætis sanna sól! sú spekin á-stúðleg, sem að ert allra skjöldur, skjól, skríð eg fram fyrir þig, að fótum blíðum Frelsarans, flatur með auðmjúkt géð, míns góða Herra, Guðs og manns, grátbeiðni hjartans með, blíf hjá oss, Herra! nú í nótt, nærsta tekur að qvölda skjótt, önd og líf frelsa íllu frá, ó Drottinn Jesú kjær! ó hvað oss glebja og hugga má, heppnast lát fjær og nær, svo hjá þér lendum himnum á, heiløg Guðs þrenníng skjær!

---

Í þínu nafni náðin þýð, nú vil eg sofna skjótt, ó minn Jesú! þín elskan blíð, yfir mér vaki í nótt, géf þú mér sætann svefn og ró, sálar brúðgumi minn! vek mig upp aptur árla þó, ef það er vilji þinn, en skuli eg detta í dauðans bund, Drottinn! um þessa nætur stund, fyrir þinn dauða, sár og þrá, Frelsarinn! géf mér frið, af því eg engu megna má, minn Jesú! veit

mér lid, hugsadu nú, minn Herra! á, hvørs eg forgandi bid.

---

Sár þegar daudans svefnin hér, sígur í brjóstid inn, lamb Guds saklausa líkna mér, lid mannlegt hvørgi finn. Lausnari minn! sem leystir mig og leidst á krossi deyd, blessadur Jesús! bid eg þig, burt taktu alla neyd, sæti Gud! þína svølun þá, sálin mín ørmædd, girnist fá, þad mun mér nægjast Herra hýr! hjartans qvøl øll mun stytt, ángur og mæda á burt flýr, eignast eg ríki þitt, hei'øg þrenníng í hæd sem býr, heyrdu nú kallid mitt.

---

Þegar ad daudans dimma nótt, dregst yfir augun mín, missi eg bædi megn og þrótt, minnid og heyrnin dvín, æ mildi Jesú! elskan blíd; andvarp mitt, heyrdu þá, því allra mest á þeirri tíd, þjádum mér liggur á, Englanna skari øndu mín, í eilífa flytji dýrd til þín, hún hvílir þar med hægri ró, horfin øll mædu tár, allskyns sælunnar fridar fró, fær þar um eilíf ár, lífs hvad sem er umlopt og sjó, lofi þig, Drottinn klár!

---

O Herra Jesú! hjartad mitt, hvílast vil eg í þér, eins láttu blessad ordid þitt, inngróid verda mér, þad gefur farsæld, frid og nád, fagnadar tilhlöckun, eblir og styrkir allt mitt rád, eykur mér hugsvølun, leidir sídan til lífsins inn, í ljómandi dýrdar hópinn þinn, sem er útvalin yndis hægd, en eckért gledi bann, þecking og valin nádar nægd, nálægjumst Gud og mann, samvalid, heidur, frelsi og frægd, fyrir mig syndugann.

---

Dags sólar er nú dvínad skart, og dimman komin á, eilífa ljósid yndis bjart, yndi sálunni ljá, rétt mér náqvæma nádar hønd, nítur graf synda stærd, tef ei ad hepta heilla grønd, heilnæma géf mér værd, ó Herra Jesú! minnstu mín, mína ønd lángar nú til þín, allra sídast þá stridhætt stund, stridir á fjørid mitt, sofna lát mig þann sæta blund, sælu géf fái eg hitt, náda mig fyrir þitt nafn og und, nafnid sé blessad þitt.

---

O hjartans Jesú! eg bid þig, adstod mín sértu best, í hvørskyns sorg sem ángrar

